# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, NÓVEMBER 1900. Nr. 9.

## Samtalsfundir

voru haldnir á fjórum stöðum í prestaköllum þeirra séra Friðriks J. Bergmanns og séra Jónasar A. Sigurðssonar í Októbermánuði. Hinn fyrsti þeirra funda var að Mountain, N.-D., í kirkju Víkrsafnaðar, laugardaginn 20. þess mán.; annar að Garðar, í kirkju safnaðarins þar, mánud. 22.; þriðji í kirkju Pétrssafnaðar, þriðjud. 23.; fjórði í kirkju Vídalínssafnaðar, miðvikud. 24.

Umrœðuefnið var hið sama á öllum þessum fundum: *Kristnitaka forfeðra vorra á Íslandi fyrir 900 árum.* Og hóf séra Jón Bjarnason umrœðurnar á öllum stöðunum. Auk heimaprestanna í þeim söfnuðum sótti líka séra N. Steingrímr Þorláksson fundahöld þessi, en hindraðist þó, þegar til kom, frá að vera viðstaddr nema á fyrsta og síðasta fundinum. Enginn af fundum þessum var vel fjölmennr, sem varla varð heldr búizt við sökum hinna óvanalega miklu haustanna almennings á þeim tíma eftir hið erviða tíðarfar á sumrinu liðna.

Eina þýðing hafa þessir fundir alveg víst haft. Þeir rifjuðu upp fyrir fólki í þeim söfnuðum fornsögurnar íslenzku, sem skýra frá upphafi kristninnar á ættjörð vorri og þeim atburðum, sem í nánustu sambandi standa við kristnitökuna. Og væntanlega aðra þýðing líka, þá þýðing, að gjöra mönnum ljóst, hve fjarri öllum sanni er sú staðhœfing, sem svo oft

hefir í seinni tíð verið haldið fram, einkum úr vantrúaráttinni, að kristnitaka forfeðra vorra hafi ekkert annað eða mjög lítið annað verið en formbreyting hið ytra. Það voru á fundum þessum bæði af leikmönnum og prestum fœrð mörg og sterk rök að því, að kristindómrinn hafi verið mönnunum öllum, sem ruddu honum braut inn í þjóðfélag vort, hjartanlegt alvörumál, enda líka mjög bráðlega borið þjóðinni, eftir að honum var leyfð friðhelguð landsvist, margfalda blessunarávexti. Engu að síðr mátti það skýrt heyra á fundum þessum, að ómrinn af rödd þeirra, er í liðinni tíð hafa verið að prédika þjóð vorri hið gagnstœða, er alls ekki enn dáinn út hjá löndum vorum hér. En gaman var að því, hve mikill fornsögufróðleikr kom í ljós hjá ýmsum í hópi leikmanna við þetta tœkifœri. Í því sambandi er vert að nefna tvo menn: Sigurð Ísfeld í Garðar-söfnuði og Einar Guðmundsson í Vídalínssöfuði. Það kemr enginn að tómum kofunum hjá þeim, þegar um Íslendingasögurnar gömlu er að rœða. Og ef þeir leikmenn, sem búa yfir eins mikilli söguþekking á því sérstaka svæði, halda fram einhverjum varúðarverðum skoðunum kristindóminum viðvíkjandi, þá eiga prestarnir mjög ervitt aðstöðu í trúarvörn sinni, nema því að eins þeir sé líka búnir að kynna sér sögurnar forn-íslenzku rœkilega og hafi lesið þær vel ofan í kjölinn.

Margt gott og fróðlegt mátti vissulega læra á þessum síðustu samtalsfundum. En eitt þótti oss bezt og það var í rœðu Sveins Sölvasonar á fundinum að Mountain. Hann minntist á það úr Njálssögu, að Skarphéðinn, deyjandi í brennunni að Bergþórshvoli, brenndi sig í kross bæði á baki og brjósti. Skildi hann það svo, vafalaust réttilega, að það tvöfalda krossmark, er hinn mikli kappi á því hátíðlega augnabliki brenndi inn í líkama sinn, sé skýr vottr þess, að hann hafi dáið í trúnni á Jesúm Krist hinn krossfesta. En í þeim fagra vitnisburði um kristnu trúna hjá hinni deyjandi hetju kvaðst rœðumaðr sjá ávöxt bœnarinnar, sem Höskuldr Hvítanesgoði bar fram, þá er hann féll fyrir þeim Skarphéðni: „Guð hjálpi mér, en *fyrirgefi yðr!*“ Þessi tilgáta hr. Sveins Sölvasonar er bæði vitrleg og hákristileg. Og hún verðskuldar það margfaldlega, að henni sé á lofti haldið.

Bent var við umrœður þessar á hið ýmsa, er ritað hefir verið og út komið á prent þetta ár kristnitökumálinu til skýringar, þar á meðal fyrirlestr séra Eiríks Briem, sem blaðið ,,Verði ljós!" kom með í vor og ,,Sam." hefir áðr minnzt á, og þó um fram allt annað hina nýju bók eftir dr. Björn Ólsen, sem var alveg nýkomin hingað vestr frá Íslandi, þegar fundirnir voru haldnir. Gætum vér bezt trúað því, að sú bók fái nú í þeim parti Vestr-Íslendinga byggðar miklu meiri útbreiðslu fyrir bragðið en ella myndi hafa orðið. Enda á hún það sannarlega skilið, að vel sé stutt að útbreiðslu hennar.

## Um kristnitökuna árið 1000 og tildrög hennar.

Þetta er nafnið á riti því eftir dr. Björn Magnússon Ólsen, er áðr er allra snöggvast getið. Og hefir bókmenntafélagið íslenzka gefið það út í minning 900 ára afmælis kristninnar á Íslandi. Það er ekki svo lítil bók að vöxtunum, 108 bls. í átta blaða broti. Og útgáfan í alla staði vönduð hið ytra, nærri því skraut-útgáfa. En mest er þó um það vert, hve prýðis-vel er frá ritverki þessu gengið af höfundinum. Aðdragandinn að hinum mikla atburði, kristnitöku þjóðarinnar, er hér skýrt og skilmerkilega rakinn samkvæmt fornsögunum. Vitnisburðir þeirra eru mjög vandlega vegnir, og þar sem þeim í einstökum atriðum ekki ber saman mjög vitrlega og hlutdrægnislaust leitazt við að greiða úr flœkjunni og leiða sannleikann í ljós.

Það hefir lengi þótt torskilið, hvernig það samkomulag gat fengizt um trúmálin tvískiftu, sem varð á alþingi Íslendinga árið 1000. Menn hafa átt bágt með að átta sig á því, hvernig á því gat staðið, að hinir heiðnu menn, sem áreiðanlega á undan því þingi voru í stórkostlegum meiri hluta, skyldi þá allt í einu láta undan kristna flokknum og friðsamlega gefa samþykki sitt til þess, að kristnin yrði í lög leidd sem allsherjar landstrú. Svo sem kunnugt er, hefir verið reynt til að skýra þetta á þann hátt, að hér hafi í raun og veru verið mjög lítil, nærri því engin, tilslökun frá hálfu heiðingjanna. Því kristnin, sem þá var haldið að þjóðinni, hafi

nálega ekki verið annað en nafnið tómt. Hér hafi að eins verið um kristnitöku í orði kveðnu að ræða. Menn hafi haldið áfram að lifa sem heiðingjar eins eftir sem áðr. Að eins friðarins vegna eða til þess að hafa kristnu mennina — eða þá, er svo kölluðu sig — góða hafi hinir mennirnir látið undan. En dr. Björn Ólsen skýrir þetta mál á allt annan hátt. Hann heldr því fram og fœrir til þess sterk rök, mjög miklar líkur að minnsta kosti, að breytingin, sem varð á stjórnarskipan landsins út af fjórðungaskiftunum og goðorða fyrirkomulaginu nýja, sem þórðr Gellir fékk í lög leitt árið 965, hafi haft það í för með sér, að myndazt hafi í landinu flokkr manna, óánœgðra höfðingja, sem hafi fundizt réttr sinn til hluttöku í landstjórninni vera fyrir borð borinn. þegar kristnin á síðustu áratugum aldarinnar tók að ryðja sér til rúms í landinu, þá hafi þessir óánœgðu höfðingjar fyrst til muna farið að láta á sér bera. því auðsætt var þegar undir eins, að hin nýja trú gat ekki með neinu móti samrímzt við hina þá verandi stjórnarskipan, sem í undirstöðu sinni var fastbundin við heiðnu trúarbrögðin. þessir tveir flokkar, nýkristnuðu mennirnir og hinir óánœgðu höfðingjar, hafi þá eðlilega runnið saman í eitt. Og margir hinna síðar nefndu líka í raun og veru orðið kristnir í hjartans alvöru. Svona lítr dr. Ólsen á, og þetta leitast hann við að sanna með góðum og gildum rökum. Og í aðal-efninu hefir hann víst alveg rétt fyrir sér, hvað sem um einstöku auka-atriði í málsvörn hans kann að mega segja. Samkomulagið frá hálfu heiðingja á alþingi stafar þá af því, að hinn flokkrinn, sem augsýnilega fór óðum vaxandi, var meðfram pólitiskr byltingaflokkr, er hrífa vildi völdin til landstjórnar til sín, úr höndum andstœðinga sinna. Til þess að afstýra þeirri hættu slaka heiðnu höfðingjarnir til að því, er trúmálin snertir. þeir vilja heldr samþykkja það, að kristnin sé gjörð að landstrú, en eiga það á hættu, að þeir missi hið veraldlega vald sitt, einkum þar sem enginn var með innleiðslu hinnar nýju trúar sviftr samvizkufrelsi. En í annan stað slakar flokkr kristnu mannanna eigi síðr til. þeir kasta frá sér öllum þeim kröfum til pólitiskra valda, sem þeir höfðu gengið með í huga sínum að undanförnu. Svo mikið vildu

þeir leggja í sölurnar. Tilslökunin frá þeirra hálfu er sannkölluð fórn í kristilegum skilningi.

Heiðr kristnu trúarinnar hjá forfeðrum vorum vex, en minnkar ekki, við það að líta á kristnitökumálið eins og dr. Ólsen gjörir í þessu merkilega minningarriti sínu.

Sumar tilgátur höfundarins eru þó, að oss finnst, býsna djarfar, og hljóta víst að teljast all-vafasamar. Hann les stundum nokkuð mikið á milli línanna, en ávallt er það skarpvitrlega gjört, og lang-oftast er rökfœrsla hans fullkomlega sannfœrandi.

Höfundrinn telr líklegt, að Gizur hvíti hafi, þá er þeir Hjalti Skeggjason hétu Ólafi konungi Tryggvasyni því, að fara til Íslands til þess að hjálpa málefni kristninnar þar við, áskilið sér yfirráð yfir landinu. En oss finnst það fremr ólíklegt. Þessi getgáta er ekki nœgilega rökstudd.—Höfundrinn vefengir þann vitnisburð Kristnisögu, að enginn úr flokki heiðingja hafi þorað að taka til máls á alþingi til þess að andmæla þeim Gizuri og Hjalta, og styðr hann þá vefenging sína með því, að í Íslendingabók Ara Þorgilssonar sé svo að orði komizt um þá Gizur, að „þat bar frá, hve vel þeir mæltu", því í þessum tilfœrðu orðum liggi það, að þeir hafi talað langt um betr en aðrir. En oss finnst með þessu alls ekki vera gefið í skyn, að neinir aðrir hafi þá flutt rœður, og að þetta þurfi ekki neitt meira að merkja en að þeir félagar hafi talað *frábœrlega* vel.

Dr. Ólsen segir (á bls. 95), að upp frá því, er kristni flokkrinn á alþingi 1000 hafði kosið sér Síðu-Hall fyrir lögsögumann, virðist allt hafa orðið spakara, kyrrlátara, þeim megin. Þetta er víst alveg rétt. En ef hann í raun og veru var sá, er lang-helzt hafði staðið fyrir málum hinna kristnu manna áðr, allt árið næsta á undan, sem höfundrinn líka heldr fram, og það all-sennilega, hví gætir þá svo lítið áhrifa hans þeim flokki til spektar fyrr en einmitt nú?

Áðr en samkomulagið um trúmál þjóðarinnar komst á á þinginu og meðan ákafinn var mestr hjá hinum tveim andstœðu flokkum stofnuðu heiðingjar til mannblóts, í því skyni að styðja málstað sinn hjá goðum sínum og fá fulltingi þeirra

til þess að varna því, að kristni næði að ganga yfir landið. Ákváðu þeir, að tveim mönnum skyldi blótað fyrir hvern landsfjórðung. En í annan stað höfðu kristnir menn lík samtök sín á milli. Þar varð það að samþykkt, að úr þeirra flokki skyldi fórnað tveim mönnum fyrir hvern fjórðung landsins hinum sanna guði til handa, ekki, eins og heiðingjarnir, óbótamönnum og illmennum, heldr þeim, er héti því að lifa því betr og syndvarlegar en áðr. Þessi lifandi fórn var kölluð sigrgjöf við drottin vorn Jesúm Krist. Frá þessu er sagt í Kristnisögu og víðar. Og enn fremr því, hverjir þeir menn hafi verið, er gáfu sig fram til þannig lagaðrar fórnargjörðar. Þeir Gizur og Hjalti, er tillöguna báru fram, unnu heitið fyrir sinn fjórðung, Sunnlendingafjórðung; Síðu-Hallr og Þorleifr, að auknefni hinn kristni, úr Krossavík í Reyðarfirði fyrir Austfirðinga; Hlenni hinn gamli úr Saurbœ í Eyjafirði og Þorvarðr Spakböðvarsson fyrir Norðlendinga. En fyrir Vestfirðingafjórðung fékkst fyrst að sins einn maðr, Gestr Oddleifsson frá Haga á Barðaströnd. Þar sýndust menn þá ætla að verða í vandræðum. Eftir nokkra bið gaf sig þó Ormr Koðránsson fram, bróðir Þorvaldar víðförla, þess er fyrst hafði hafið kristniboðið á Íslandi með Friðrik biskupi hinum saxlenzka. Hann bjó á þessari tíð í Borgarfirði og hafði til þessa ekki kristnazt. En nú bauðst hann til að fylla flokk kristinna manna og ganga undir fórnargjörðarheitið fyrir sinn landsfjórðung ásamt Gesti, ef þeir vildi þiggja. Boð hans var þegið og hann skírðr. — Að því, er snertir heit þetta frá hálfu hinna kristnu manna, segir nú dr. Ólsen, að sagan sé nokkuð grunsöm. En ástœður þær, er hann kemr með þeirri grunsemd til stuðnings, eru að ætlan vorri mjög léttar á metum. Ein er sú, að þegar búið sé að telja þá alla upp, er heitið unnu, þá sé um leið unnin upp nöfn flestallra heldri manna, sem áðr er um sagt að hafi verið riðnir við kristniboðið í landinu. En var ekki eðlilegra en allt annað, að þeir, sem mest höfðu verið við það mál riðnir og mestan áhuga höfðu þar sýnt, yrði nálega sjálfkjörnir til þess að vinna heitið? Af þeim, sem áðr studdu að kristniboðinu víðsvegar um land, mundu menn á þeirri tíð, er fornsögurnar voru í letr fœrðar,

helzt eftir þessum, er nú koma fram, fyrir þá sök, að þeir hafa frá upphafi verið máttarstólpar hinnar byrjandi íslenzku kristni. Önnur ástœða dr. Ólsens fyrir því að telja söguna um fórnargjörðarheit hinna kristnu manna grunsama er sú, að Hjalti Skeggjason hafi sýnt sig sem mikinn „veraldarmann", þá er hann, eftir því sem segir í sögu Ólafs helga, nokkuð löngu seinna dvaldi utan lands við hirðir þeirra nafna, Ólafs Haraldssonar í Norvegi og Ólafs Eiríkssonar í Svíþjóð. En í þeim kapítulum sögunnar, sem vitnað er til þessu til sönnunar, getum vér ekkert fundið, sem varpi þeirri rýrð á framkomu Hjalta, er sýni, að hann hafi „annaðhvort aldrei unnið það heit að helga lifnað sinn guði eða þá svikið það". Vér verðum að muna eftir því, að kristni þeirrar aldar var í mjög ófullkomnum umbúðum, og margt í framkomu manna, sem nú réttilega er talið ósamrímanlegt sannkristinni trú, hneykslaði þá engan. Yfir höfuð finnst oss dr. Ólsen dœma Hjalta harðar en hann á skilið, þó það vafalaust ekki sé af ásettu ráði. Og að því, er snertir spaugyrðið, sem haft er eftir Hjalta, þá er Runólfr í Dal Úlfsson rétt eftir þingið var skírðr — „Gömlum kennum vér nú goðanum að geifla á saltinu"—, þá sanna þau að ætlan vorri að eins það, að maðrinn var merkilega fyndinn í orðum, jafnvel meinfyndinn, sem vel gat og getr enn verið einkenni á sannkristnum manni.

En annars eru allar þessar aðfinningar vorar smámunir, sem vér ekki viljum leggja neina verulega áherzlu á. Í aðalefninu er minningarrit þetta prýðilega af hendi leyst og mikillar þakkar vert. Og allir góðir Íslendingar ætti að eignast það, lesa það vandlega og styðja sem mest að útbreiðslu þess.

## Frá Íslandi.

Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.

### XI.

Síðasti kaflinn endaði á athugasemdum um hina óhollu íslenzku blaðamennsku, sem Reykjavík minnti mig á, í sambandi við hina öfugu og til þessa tíma að ýmsu leyti óhollu skólamenntan.

Hafísinn við Ísland er vondur, og mörg harðindi, er stafa af hnattstöðu landsins, eru raunaleg. En hin andlega hnattstaða hinnar hærri menntunar íbúanna, ísrek blaðamennskunnar og kólgan, sem af því flýtr í öllu þjóðlífinu, er þó stórum mun skaðlegri og tilfinnanlegri, og auk þess einungis sjálfskaparvíti.

Því um það finnst mér enginn skoðanamunr geti verið, að sum íslenzk blöð gefa börnum landsins stein fyrir brauð og höggorm fyrir fisk, að þau hafa snúið við eða reynt að snúa við þessari postullegu reglu: „Brœðr, verið ekki börn í skilningi, heldr eins og börn í hrekkvísi, en verið fullorðnir í skilningi" (1. Kor. 14, 20). Og þeir, sem til þekkja, lesa íslenzk blöð og kynnast íslenzkum hugsunarhætti almennt, vita, að sú kenning, sem snýr þessu við, er farin að bera sinn ávöxt á fóstrjörðu vorri, og þaðan hefir það frœkorn fokið alla leið hingað vestr.

Óhamingjan sú eða sú, sem fyrir kemr úti á Íslandi, getr einatt haldið vöku fyrir manni hálfar nætr hér vestr í miðjum Vestrheimi. Og sannarlega er ástœða til að verða „andvaka", þegar um önnur eins áframhaldandi, alþjóðleg óheillaálög í hinum andlega Skuldarbardaga þjóðar vorrar er hugsað, sem einmitt þau, er í seinni tíð hafa komið fram í íslenzkri blaða-ómennsku,—einungis að það gæti þá líka haldið vöku fyrir lakasta leiðtoga fólksins, vakið einhvern þeirra, er værast sofa og verst rœkja köllun sína gagnvart Íslandi og íslenzkri þjóð.

Margir kannast við frásöguna um Lúter, er lætr hann eitt sinn, í gremju yfir aðsókn hins illa, henda blekbyttu sinni út í herbergishorn í Satan, er hann hugði hafast þar við til að hindra sig frá verki köllunar sinnar.

Veri það sem má um þessa sögu. En hinn ókristni andi illsku og óeiningar hefir á einhvern hátt náð í blek og prentsvertu og með því verulega heft og hindrað þjóð vora — ásamt fleirum — á hennar framfara-braut og tilfinnanlega truflað vor á meðal kristna trú og kirkjuna, sem kennd er við nafn Lúters.

Mest langaði mig til að kynnast kirkjulífi Reykvíkinga og

hinum andlegu leiðtogum landsins, sem þar búa. Á ferðalagi mínu kynntist eg um 40 guðfræðingum á Íslandi. Í Reykjavík vissi eg af hinum „stœrri spámönnum" íslenzku kirkjunnar, og þá vildi eg einkum sjá og heyra. Enda gladdi samvistin með þeim og viðkynningin við þá mig stórlega, yfir höfuð að tala. Til flestra aðal-guðfrœðinganna í Reykjavík fékk eg einnig að heyra eitthvað, er opinberlega var talað í kirkjunni eða utan hennar, nema séra Eiríks Briem, er lá um þær mundir rúmfastr og eg kynntist því ekki. Ekki heyrði eg heldr biskup landsins, hr. Hallgrím Sveinsson, flytja neina rœðu, en mjög föðurlega tók hann mér. Og langt má víst leita að hýbýlaprúðari manni meðal Íslendinga og betri gestgjafa; þó það vitanlega tilheyri ekki beinlínis biskupsstarfinu, tilheyrir það þó biskupstigninni að parti. Við all-mikinn mun verðr maðr var í kirkjumálastefnu hinna eldri og yngri guðfrœðinga í Aþenuborg ættjarðar vorrar, þó báðir—hinir eldri og yngri—vilji vafalaust vinna kristindómi og kirkju allt það gagn, sem þeir geta. En trúað get eg því, að finna mætti enn eitt altari, sem skrifað stœði á: „Hinum ókunna guði", að því er trúmálastefnuna snertir, eins þar í menntastöð Íslands, sem í höfuðborg Grikklands forðum daga. — Þennan guð (sbr. P. gj. 17, 18) vilja hinir yngri menn — ásamt mörgum há-evangeliskum eldri prestum og þar á meðal dómkirkjuprestinum, — prédika þjóð sinni með miklum áhuga, — eftir því, sem á Íslandi mun tíðkast, eins og kunnugt er hér vestan hafs af „Verði ljós!", sem er málgagn þeirrar stefnu. En naumast fannst mér prédikunaraðferð hinna yngri manna hafa tekið framförum að sama skapi sem sumt í stefnu þeirra. Hvað það snertir hlýt eg þó að játa all-mikinn ókunnugleik.

Í Reykjavík er vafalaust mikill móttœkileiki fyrir andlegan áhuga og kirkjulega framför. Það leynir sér ekki. Getr verið, að kirkja sé ekki sótt sem skyldi og ýmislegt annað megi telja, er bendi til hins gagnstœða. En eg sá kirkjuna sótta ágætlega og heyrði hvervetna hina mestu þrá eftir andlegri framför. Í raun réttri er sú löngun nú mjög almenn á Íslandi, þó ekkert eða undr lítið verði svo úr henni. Það er stór-mikill fjöldi, sem langar til að vantrúar-þokunni létti af,

svo birti yfir byggðum Íslands, sem þráir, að þetta ókristilega stóryrða-úrfelli stytti upp, sem allt andlegt líf hefir gjört gagn-*drepa*, ófœrt eða ónýtt,—ofan af fjöllum og út í sjó sent hroll og stundum helskjálfta — andlegan landskjálfta — inn í í húsin og kirkjurnar og hjörtun.

Hvað sem blöðin heima kunna að segja um velgengni og verklegar framfarir, þá er andlega árferðið á Íslandi engan veginn enn orðið gott, — enda á kirkjan fæst blöðin að. Ef trúa má sumum talsmönnum þjóðarinnar, liggr næst að halda, að í þetta sinn verði aldamóta-harðindin, sem þjóðtrúin lætr sjaldan bregðast, andleg harðindi, hallæri og fellir fyrir kirkjuna og kristnu trúna, og svo vildu nú sum ákvæða- (eða ókvæða-) skáldin kveðið hafa. En eg held, að sú Krukkspá hinna ,,lærðu"*) komi ekki fram. Og ,,þrátt fyrir allt og þrátt fyrir allt",—öll slík andleg harðindi heima, og allar slíkar harðindaspár héðan að vestan, er enginn slíkr harðindabragur sýnilegr í Reykjavík. Von manns, hvað lútersku kirkjuna á Íslandi snertir, hlýtr að lifna við það að kynnast kristindómsáhuga margra Reykvíkinga, ekki einungis meðal kirkjuleiðtoganna, heldr einnig meðal leikmanna**) af öllum stéttum. Margir hinna helztu borgara Reykjavíkr eru trúaðir menn. Og ýmsir, sem fyrir fáum árum voru lítt vinveittir kirkju og kristindómi, þar á meðal sum skáldin vor, eru það nú fullkomlega. En einkennilegt er það, að einn guðfrœðingr, sem er ritstjóri, lætr blað sitt brigzla einum mjög merkum, stórgáfuðum manni og góðum dreng um það, að nú sé hann orðinn kristinn. Það gæti þó hvergi komið fyrir nema á Íslandi eða í íslenzkum blöðum.

Fyrir eitthvað nálægt 25 árum gekk út frá skólalýðnum í Reykjavík sú afneitan og efaspeki, sem enn bólar á víða í þjóðlífi voru. En nú ganga út frá höfuðstaðnum, hvað sem skólunum sumum kann að líða, alveg gagnstœð áhrif, til blessunar fyrir land og lýð. Og trúarlíf höfuðstaðarins verðr bráðlega trúarlíf landsins. Aftrhvarf aldarinnar hefir loks

*) Krukkspá er eftir Jón nokkurn, er kallaðr var ,,lærði" m. fl. Hann þótti göldróttr mjög. Krukkspá var rituð um 1640.

†*) Eg viðhefi ,,leikmenn" hér um óvígða, þótt ,,lærðir" sé, því það mun rétt, og í þeirri merking er enska orðið ,,laymen" ávallt haft.

náð til Íslands. Trúarframförin, aftrhvarfið í skaut kirkjunnar, sem á sér stað á Frakklandi, í Danmörku og á Norðrlöndum yfirleitt, með hinu sérkennilega, er því aftrhvarfi er samfara, kostum þess og ókostum, hefir fest rœtr í Reykjavík. Ungir efnismenn, er eg þegar hefi nefnt flesta, bæði í þessum greinum og öðrum, sem stundað höfðu nám erlendis, fluttu þenna nýja lífsanda trúarinnar heim aftr með sér. Um áhrifin kirkjulegu héðan að vestan vil eg ekki hér tala, þó að þau hafi nú fengið nokkurn veginn almenna viðrkenning úti á Íslandi, jafnvel hjá flestum prestum þar. En hitt hlýt eg að taka fram, að blaðið „Verði ljós!" og ritstjórar þess, séra Jón Helgason og Haraldr Níelsson, eiga ekki lítinn þátt í þessari nýju andlegu aldamótahreyfing á Íslandi. Um hinn síðar nefnda hefi eg þegar farið nokkrum orðum og einnig minnzt á séra Jón Helgason, sem er hinn kennimannlegasti, heitr og ákafr áhugamaðr um öll sín mál og, að mér fannst, einkum auðkenndr af meira ötulleik og starfsþreki en títt mun á Íslandi. Endrgjaldslaust prédikar hann í dómkirkjunni oftast annan hvorn sunnudag,—nema ef telja skyldi til endrgjalds vanþakklæti einstakra og hnjóðyrði, sem hann hefir fengið úti látið örlátlega um allt land fyrir sín verk. Jafn-ungr maðr og hann er hefir hann ritað talsvert, auk blaðsins, sem hann skrifar að mestu. Einnig skilst mér, að hann hafi mikil áhrif á prestaskólann, sem faðir hans, og sé þar elskaðr. En prestaskólinn er of fámennr fyrir gagnsemi slíkra áhrifa og þau verða œði seinfœr eins og hann er nú sóttr. Og það hefir séra Jón Helgason vafalaust fundið og því beint áhuga sínum meðfram í aðra farvegi, og það, þrátt fyrir yfirgnæfandi kosti, ekki ávallt sem heppilegast upp á síðkastið fyrir íslenzkan tíðaranda og Krists-afneitan, sem víðast vor á meðal er vantrúar-þungamiðjan.

Eg minnti á ötulleik og starfsþrek þessa unga kirkjuleiðtoga. Og kirkja Íslands og þjóðfélagið íslenzka þarfnast dugnaðarmanna. Verkamannafæðin er víðar tilfinnanleg en í sveitabúskapnum. Á Íslandi vantar allsstaðar og í öllu „verkamenn",— menn til að vinna. Ekki vantar þar „ráðgjafa",—nema ef vera skyldi þennan eina Íslandsráðgjafa,

sem allir aðrir ráðgjafar eru að gjöra að engu. Sorglega lengi hefir það brunnið við á Íslandi, að flestar umbœtr hafa dáið í reifum og menn hafa misst málið af þögn. Hið bilaða kirkju- og kristindóms-ástand hefir verið bundið saman með lögum, ,,formum" og venjum, svo fáir hafa þorað að snerta við því—nema þeir, er vildu brjóta það gjörsamlega, heldr en brotnu verkfœri, sem enginn vinnr fullt verk með. Þetta vita nú eiginlega allir, þó enginn vilji segja það. Það er svo ríkt í eðli mannanna að sofa,—liggja í andlegu dái og dreyma um hlutina. Eg held það sé ekki fjarri sanni, að kirkjan sé því eiginlega mörgum að eins nokkurs konar draumkona—sumum fyrir illu og öðrum fyrir góðu í draumum sínum.

Pólitíkin, nú bráðlifandi, varð því víða œðri en kirkjan. Alþing varð allt, en *synodus* ekkert, —jafnvel í augum prestanna. Kirkjulegir fundir, sem héraðsfundirnir, dóu út fyrir þjóðminningar-hátíðum, sem ekkert þjóðlegt hafa í sér fólgið nema nafnið. Kristnitökuhátíðin, haldin á sunnudag, þarf að haldast með hesta-ati og dansi —fyrir fólkið. Stjórnartíðindin komu sumsstaðar í stað biblíunnar, ,,Þyrnar" Þorsteins hjá of mörgum fyrir Hallgríms-sálma, og blöðin, eins og þau eru sum, voru höfð til húslestra í stað góðra guðsorðabóka. Svo fór, að trúarhugsanir, tal margra og sumar kirkjuhreyfingarnar lutu ekki að því, sem menn *trúðu*, heldr að því, sem menn *neituðu*. Einnig fríkirkjuhreyfingin varð öfug á Íslandi, eins holl og rétt sem hún hefði getað orðið og hefir víðast reynzt. Menn slitu sig úr þjóðkirkjunni eins og kunnugt er, reiðir yfir embættaveitingum eða gjalda-fyrirkomulagi, af uppreisn eða óánœgju gegn hinu *ytra* fyrirkomulagi kirkjumálanna, en ekki fyrst og aðallega af kristilegri trúarhvöt, lifandi löngun hjartnanna til að skilja sig frá þjóðkirkjufélagskapnum í því skyni, að geta lagt meira á sig fyrir kirkjuna og unnið á einhvern hátt betr að lifandi trú og sáluhjálparefnum sínum og sinnar eigin þjóðar. Þetta er sögulega þannig, marg-ítrekað opinberlega í ritum og rœðum. Enda munu allir leiðandi menn á Íslandi skilja það nema einn maðr. Og stundum eru hlutirnir *of nœrri* manni til að sjást vel og réttilega. Kirkjan verðr hvorki kirkja né fríkirkja af því einu, að

nefna sig það, þó sumum komi það líklega til hugar. Og engir fríkirkjuóvinir þurfa þeir menn að vera, sem efast um andlegan ágóða af fríkirkjustarfinu *á Íslandi* eins og það enn er þar unnið. Enda getr fríkirkju*stefna* verið hin rétta almennt, þó fríkirkju*starfsemi* á vissum stað sé, ef til vill, allt annað en holl, án þess þó að eg fullyrði, að hún sé án allrar blessunar á Íslandi.

## Tvenn andmæli frá séra Oddi.

I.

Séra Jón Bjarnason,

forseti kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi.

Í nr. 8 af 15.árgangi „Sameiningarinnar", Okt. 1900, verðr fyrir mér „Skýrsla", sem þér höfðuð flutt á kirkjuþingi í sumar, meðan eg var fjarverandi, þær stundir, sem þér höfðuð sjálfr leyft. Skýrsla sú stendr auðsjáanlega í sambandi við frásögu Mr. Ó. Þorgeirssonar í Almanaki ársins, 1899 bls. 45, og svo pésa séra Hafsteins Pétrssonar „Tjaldbúðin", auk annarra atriða í Nýja Íslandi á tímabilinu frá 1893 til 1900.

Skýrslan er hvorki nákvæm né rétt að öllu, sem ske kann að stafi af veikindum yðar eða minnisskorti.

Eg vil þess vegna ekki leiða hjá mér að mótmæla þessari skýrslu yðar, sem villandi, úr því hún er komin fyrir almennings sjónir.

Samt sem áðr, af því mörg kurl hljóta að koma hér til grafar, og staða okkar beggja alvarleg, þá ræð eg af að fara fram á, að eg gefi skýrslu um komu mína til Ameríku og köllun til starfa í Brœðrasöfnuði og gegn vantrúnni og séra Magnúsi í Nýja Íslandi" á næsta kirkjuþingi að Gimli 1901.

Bið eg yðr, herra forseti, sem ritstjóra „Sameiningarinnar", að birta þetta bréf mitt í næsta blaði hennar í Nóvember þ. ár.

Icelandic River, 22. Okt. 1900.

Bróðurlegast

ODDR VIGFÚS GÍSLASON.

II.

Háttvirti ritstjóri!

Í síðasta blaði „Sameiningarinnar", nr. 8., Okt. 1900, 15. ári, er stutt ágrip um Selkirk-söfnuð eftir Mr. Gest Jóhannsson, sem hann nefnir „Saga Selkirk-safnaðar".

Í ágripi þessu er margs ógetið, og menn ógreindir, sem hlut eiga að sögu safnaðarins; og mín þar svo minnzt, að mishermt er og óljóst. Verð eg þess vegna auðmjúklega að leyfa mér að gjöra athugasemd og skýring við þetta litla, sem mín er getið.

Eg hefi aldrei verið kallaðr sem prestr Selkirk-safnaðar, að því sem „köllun" þýðir hér vestra, og það af þeirri einföldu ástœðu, að söfnuð-

inum var frá upphafi funda okkar kunnugt, að eg tœki þar ekki köllun, fremur en annarsstaðar, framar en eg væri búinn; en eg þjónaði söfnuðinum samkvæmt sérstökum árlegum samningi, að beiðni safnaðarins, 1895, 1896 og 1897 með 10, 7 og 6 embættisgjörðum á ári, fyrir um samið kaup, $10 hverja ferð, auk extraverka. Svo þjónaði eg söfnuðinum 1898 og 1899 að parti, fyrir „frjáls samskot í kirkju". Þessi tvö ár þjónaði eg að „prívat missíón" minni, að vilja vina og frænda, þótt eg vissi, að sumum safnaðarlimum þætti það „leitt", því eg vissi, að það var guði þóknanlegt, að hans orð væri flutt í Selkirk, á meðan „köllun" þjónandi prests, sem þar væri heimilisfastur, var ekki komin í laggirnar.

Gjörið svo vel, herra ritstjóri, að birta þetta bréf í næsta blaði „Sameiningarinnar" í þ. m.

Icelandic River, 2. Nóv. 1900.

Virðingarfyllst

ODDR V. GÍSLASON.

---

Í prédikanabók minni, er *Guðspjallamál* nefnist, nýútkominni í Reykjavík á kostnað hr. Sigurðar Kristjánssonar, og nú hið fyrsta væntanlegri hingað vestr, eru all-margar prentvillur, flestar þó svo, að naumast hneyksla allan þorra lesenda. En sumar eru þó svo meinlegar, að vara þarf menn við þeim fyrir fram. Og af því að bókin líklega kemr í hendr sumra manna á undan prentvillu-skrá væntanlegri frá útgefanda, leyfi eg mér hér að benda á helztu villurnar og leiðrétta þær, en bið menn jafnframt þegar *undir eins og þeir fá bókina til sín* að setja þessar leiðréttingar mínar þar inn á sínum stöðum:

Á bls. 22 í 7. línu að neðan vantar inn í á eftir orðinu „mestmegnis": *fara fram hjá sér*, —

Bls. 46, 3. og 4. l. að ofan: „lífsskoðanir, sem birtast" á að vera: *lífsskoðanin, sem birtist*

Bls. 47, 7. l. a. n.: „trúarþjónustuna" á að vera: *trúarlífsþjónustuna*

Bls. 55, 16. l. a. o.: „hér" fyrir *þegar*

— 117, 15. l. a. o.: „sem varð" fyrir *sem hann varð*

— 175, 2. l. a. n.: „að" falli burt.

— 253, 10. l. a. n.: „og" á undan „smáir" falli burt.

— 288, 12. l. a. o.: „öðru" fyrir *einu*

— 426, 4. l. a. n.: „dauðum" fyrir *dauður*

— 484, 5. l. a. o.: „að" fyrir *sem*

— 492, 7. l. a. o.: vantar *enn* á eftir „hann"

Bls. 497, 15. l. a. n.: ,,myrkri" fyrir *myrkur*
— 507, 18. l. a. o.: vantar *eru* á eftir ,,ákveðnir"
— 514, 4. l. a. o.: vantar *þess* á eftir ,,girndum"
— 516.: 10. og 11. l. a. o.: ,,fullyrða það" fyrir *fullvissa alla um það*
— 524, 14. l. a. o.: ,,óendanlega" fyrir *óendanlegar*
— 533, 5. l. a. n.: ,,ekki" á undan ,,eingöngu" falli burt.
— 562, 8. l. a, n.: vantar inn í á eftir ,,laufblöð": *á fíkjutrénu*
— 579, 15. l. a. o.: ,,hið eina" fyrir *hin eina*
— 631, 11. l. a. n.: ,,geti" fyrir *getur*
— 643, 16. l. a. o.: ,,af" fyrir *og*
— 644, 3. l. a. n.: ,,einmitt" fyrir *einatt*
— 657, 14. l. a. n.: ,,Hvað" fyrir *Hvar*
— 666, 7. l. a. o.: ,,kemur" fyrir *koma*
— 677, 1. l. a. n.: ,,Í því í atriði" fyrir *Í því atriði í*
— 682, 11. l. a. o.: ,,allt af ófúsari" fyrir *allt ófúsari*
— 712, 10. l. a. o.: vantar *með* á eftir ,,fram"
— 713, 19. l. a. n.: ,,löndum" fyrir *löndunum*

Winnipeg, 10. Nóvember 1900.

JÓN BJARNASON.

---

,,Ísafold" hefir frá því í vor og þangað til í haust haft meðferðis ágrip af hinni stór-merku bók eftir *Benjamin Kidd* um framför mannfélagsins (*Social Evolution*), sem fyrst kom út á Englandi 1896 og brátt gjörði höfundinn heimsfrægan. Í kristilegu tilltiti er ritverk þetta hið dýrmætasta. Og útdráttr sá úr bókinni, sem ,,Isafold" hefir gjört, ætti endilega að koma út í bókarformi, nema því að eins, að frumritið allt fengist þýtt á íslenzku, sem þó ef til vill ekki kœmi fólki voru að meiri notum.

---

,,Sunnanfari" fór að koma út á ný í Reykjavík á síðastliðnu vori, vel og vandlega úr garði gjörðr, undir ritstjórn þeirra Björns Jónssonar og Einars Hjörleifssonar. Í Júlíblaðinu fyrra eru myndir af þeim séra Friðrik J. Bergmann og séra Jónasi A. Sigurðssyni ásamt greinum um hvorn þeirra fyrir sig.

---

Biskupinn yfir Íslandi, hr. Hallgrímr Sveinsson, hefir með einkar hlýju bréfi til skrifara kirkjufélags vors, séra Björns B. Jónssonar, kvittað fyrir kveðju-ávarpið til kirkjunnar á Íslandi frá kirkjuþinginu í sumar, sem leið, út af níu hundrað ára afmæli kristnitökunnar. Þetta bréf frá biskupi hefir séra Björn sent oss til birtingar í ,,Sam.“ og kemr það væntanlega í næsta blaði. ,,Verði ljós!“ hefir þegar birt Ávarpið eftir ósk biskups — í Október-blaði sínu. Ávarpið var skrautritað af hr. Frank Johnson í Minneota.

---

Hr. Sumarliði Sumarliðason, gullsmiðr, sem að undanförnu hefir átt heima í bœnum Milton, N.-D., en nú hefir nýflutt sig vestr að Kyrrahafi, gaf rétt áðr en hann hafði bústaðaskifti bókasafni kirkjufélagsins 24 bœkr, sumar í fleiri bindum en einu, flestar á dönsku, allar nýtilegar, sumar mjög mikils virði. Skrá yfir bœkr þessar kemr væntanlega í næsta blaði ,,Sam.“ Þær eru enn í vörzlum séra Friðriks J. Bergmanns. — Gefandinn á hjartanlega þökk skilið fyrir þessa höfðinglegu gjöf. Vonanda, að ýmsir góðir menn verði til þess að feta í hans fótspor.

---

Samskot til missíónarsjóðs kirkjufélagsins, tekin á guðsþjónustufundum til minningar reformazíóninni nálægt síðustu mánaðamótum í prestakalli séra Björns B. Jónssonar, hafa orðið helmingi meiri en árin á undan. Það er gleðilegt og gott til eftirdœmis fyrir aðra söfnuði vora.

---



,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 arg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.